# Rimur

af

# Svoldar Bardaga.

---

Orktar af

Sigurdi Breidfjørd.

Arid 1824.



---

Videyjar Klaustri, 1833.
Útgéfnar og prentadar af Bókþryckjara
Helga Helgasyni.

# Fyrsta Ríma.

1. Hér qved eg um hetju-mód,
hinna tídar manna,
sem létu úr ædum bana-blód
buna óvinanna.
2. Hér qved eg um Svoldar-sveit,
til sóknar þegi lina,
hverju lýdum lausum beit,
ad lima' í sundur hina.
3. Hér qved eg um vópnin vold,
vidur branda-sálma,
gylltar brynjur, skygdann skjold
og skafna járna-hjálma.
4. Qved eg og um kónga-makt,
sem kíks um heitar slódir,
volduglega' ad velli lagt,
vaskar seinan Þjódir.
5. En, þér, Gudir ása-sals!
ydar til eg leita,
vyrdist þér til þessa alls
þrótt og styrk ad veita!
6. Komid, Gudir! leggid lid,
lífs og krapta sína,
ydar hjarta hræríst vid,
hróp og beidni mína.

7. Sanngva-gydjan afl og önd
allt þér mitt skal hrósa,
stattu mér vid hægri hönd,
himins ljóma-rósa!
8. Uppfyll þú þeim anda mig,
sem orkar dikt ad géra,
særi eg til þessa þig,
ef þú ert mátting vera.
9. Vertu æ mitt leidar-ljós,
þá letra bragi fína
hertu' og stilltu, himnesk drós!
hörpu streingi mína.
10. Alfadir! þín edla sjón
ad einum hugi mínum,
hvarfla þú frá hlidskjálfs trón,
híngad augum þínum!
11. Bjód þú Drottinn braga! mér,
bikar einn ad færa,
helga skal eg þenna þér,
þín svo verdi æra.
12. Nú skal treysta' á nádir þín,
nægst vid bögur mínar.
en berdu mér ei blandad vín
né botna-dreggjar þínar.
13. Þó til ljóda lögunar,
lista vanti prýdi,
samt kém eg til Sögunnar,
sitji menn og hlýdi.

---

14. Lifnar hugur líka géd
ljód til Sögu víki;

Olafur Tryggva arfi réd
ellu Norvegs ríki..

15. Med sér hafdi mikinn her,
mildíng tamur rendum,
því Kóngur hafdi kosid sér,
kappa úr ýmsum lendum.

16. A þeim tíma er um eg gét,
út hjá grundar jedrum
byrdíng kóngur byggja lét,
betri flestum edrum.

17. Menn til valdi mildíngur,
ad minda kner af lidi
Þorgeir hétu og Þorbergur,
Þóptubjarnar smidir.

18. Feck til kóngur fleiri enn þá,
firda smídis - haga,
sumir skyldu sauminn slá,
en sumir vidi laga.

19. A gódum efnum vída vel,
vissu smidir spakir,
en feingu ei tré ad fella í kjel
fyrir leingdar sakir.

20. Einhvern dag ad eldu beck,
ítar feta, ad morgni,
mikill þeim á móti géck
madur og nefndist Forni.

21. Móts vid smidi manninn bar,
mjeg til-gaungu hradur,
yfirlita íllur var,
einsýnn, raudskeggjadur.

22. Hann nam frétta holda þá:
hvernig smídar gánga?
En þeir qváduſt ecki fá,
efnis' í kjølinn lánga.

23. Yfirsmidi bófinn bad,
báda med sér gánga;
honum fylgdu flódi ad,
freyrar ættartánga.

24. Vit sinn hitti brodda-þór;
en bragnar klæddir stáli,
sjá ad forkur furdu stór
flaut í sjáfar-máli.

25. Vel leitst smidum efnid á,
og þess kostum hæla;
spítu kóngur þyggi þá—
þad nam Forni mæla—

26. Karlinn réri fram á fjørd;
firdar heim þá gánga,
brátt og sýndu borgar verd
kúfinn vidar lánga.

27. Kóngur skoda vidinn vann,
vyrdti fyri sér litid;

Forna qvadst ei þeckja þann,
og hótti nockud skrítid.

28. Sjólf fót á bútinn ber,
brosti vid og sagdi:
höggvid sundur þarna, þér!
þad var gjørt ad bragdi.

29. Eitur-slánga út úr hreck;
ansadi styrir ríkja:
Odinn hafi einga þeck,
yckur vill hann svíkja!

30. Þó skal brúka þetta tré,
og þar á trú mín standa,
ad meiri Drottins miskun sé,
enn máttur illra fjanda.

31. Sigurdur Biskup vígja vann,
vidinn Grams ad ordum,
svo í kjøl var hafdur hann,
og hæckad sley ad bordum.

32. Ødlíng haga ordum fór;
fyrst í var trénu slánga,
eg vil þennann øldu-jór
Orminn kalla lánga.

33. Algjørr var svo ormur geims
út hjá slædar-setri;
um Nordurálfu alla heims
einginn fannst þá betri.

34. Dreka-höfud heflad stód,
á hesti framan drafna,
smelt og rendt var grædis glód
um grafna skurdinn stafna.

35. Spordur mikill aptan á,
efsid prýddi ránga,
glóudu eins og gull ad sjá,
grafnar rósir spánga.

36. Marar hafdi marinn skjær,
mastra kylfur stórar,
en árar hans á hlidar tvær,
hundrad vóru og fjórar

37 Þrjátíu rúm á Þóptu klár,
þegnar toldu og fjegur,
átta og tíu álna hár,
ærid stórmannlegur.

38. Svo albúid fagurt fley,
fram vid ægínn stendur,
glansadi eins og grettirs ey
gullnu skurdum rendur.

39. Þengils Drottníng þetta bil,
sem Þyri mundi heita,
fast nam konúng fýsa til
ad fróni Vinda leita.

40. Eignir Drottníng átti þar,
og Ödlíng sækja bidur.

Fylkir géfur fljóði svar:
fé⸗þerf mun ei ydur.
41. Fast nam eggja audar⸗brú,
og endursvarar honum:
sakja ecki þarir þú
þetta fyrir Dönum.
42. Olafur kóngur ansar hátt:
einginn sá mig hrædast;
til ferdar allir búist brátt,
sem brynju meiga klædast.
43. Þá konúngs heyrdi hyrdin ord,
hans ad bodum gánga,
og dróu fram á drafnar⸗stord,
drekann bordalánga.
44. Komu ýmsum fjordum frá,
frægdar kappar snjallir,
skeidir keyrdu á kaldan sjá,
Konúngs vinir allir.
45. Skatna beiddi Skjoldúngur,
skipa til ad gánga;
ædstur manna Olafur,
Orminum stýrdi lánga.
46. Þángad fólkid valid var
vopna mest af þórum
og hilmirs allar hetjurnar,
hardar í sverda órum.

47. Ulfur Raudi í stafni stód,
Stiklirs bar sá merki,
af Heidamørk med hetju móð,
hafurinn var hinn sterki.
48. Stallari Kolbeinn stód hjá hal,
í stafni og varnar gætti,
rekkurinn var úr Raumadal
ramur ad sóknar mætti.
49. Indridi var Ilbreidur,
einnig ramur brandi;
var þar líka viddstaddur
Vikar af Tíundalandi.
50. Arnljóts bródir eigi skjór,
álma var sá njótur,
þar var hjá þeim þróttar-stór,
Þorsteinn Uxafótur.
51. Vid sexin gjørdu sterkir stó,
þó stála vari gjóla,
Hyrníngur og Þorgeirr þá;
þeir vóru mágar Sjóla.
52. Ivar Ljómi unda bjørk,
otadi stáls í verki;
Þorsteinn Rami af Þelamørk,
þar hjá Befsi Sterki.
53. Oþyrmir og Vakur vel
voktu sára glædur;

Hárek líka Hvaſsa tel,
og Hálegja tvo bræður.
54. Olafur Dreingur, Ögmundur,
Arnór, Ketill ſpakur,
Bjarga Finnur Brynjólfur,
Bjørn og Dala-Bakur.
55. Í krapparúmi þá var þar
Þambarſkelfir Einar,
Hallſteinn kunni hrotta-ſkar
Hlífarſon að reyna.
56. Þó Einar væri ſtaddur ſeim,
og ſæmdar hetju-þrótti,
óhlutgengur øllum þeim,
átján vetra þótti.
57. Þorſteinn Skelkur, Þórálfur,
þar hjá varnar krefur,
Ívar Svarti öflugur
og Ormur Skógarnefur.
58. Þar var líka þrótthardur
Þorgrímur með falnum
Ketill Háfi og Hávarður,
hann var úr Orknadalnum.
59. Frá Studlum vórn Bárður, Bjørn,
og Børkur af finnſku kyni
Þorgrímur með þrekna vørn
Þjóðólfsſon úr Hvini.

60. Þorsteinu Hvíti, og Þórdur var,
þar frá Ofrustedum,
og Hallsteinn sonur Hrómundar
Hallta, beittu nedum.

61. Grímur vóru' og Þórdur þá,
þar úr Mardardelum,
Einar, Bessi, Hallsteinn hjá,
og Hróalldur af Fjelum.

62. Þessir vóru midskips menn
Mostrar Asbjorn Sterki,
Sigurdur Býldur, Einar enn,
allir í hildar = verki.

63. Þorkell Dyrdill Ogdum af,
álfum fylgdi spánga
þessir fram á kylja kaf,
keyrdu Orminn lánga.

64. Kappa þessa alla enn,
Odlíng þángad velur,
og ótal fleiri afreksmenn
sem ecki bókin telur.

65. Svo var valin sveitin stinn,
af seima njótum snerum,
eins og lángi Ormurinn,
edrum bar af knerum.

66. Þorkell Nefja af þegnum bar,
þrótt og hugann ramma,

bródir Olafs Ödlíngs var,
Orminum stýrdi Skamma
67. Módurbrædur Mildíngs tveir,
mundu stýra Tronu,
Jósteinn héru og Þorkell þeir
þeguar strídi vonu.
68. Á skipin bædi valid var,
vaskleiks fólkid snarpa
en sá Lángi mastra mar,
mesta hafdi garpa.
69. Stillir líka sterkur bjó,
stórskip onnur níu,
morg hann hafdi minni þó
mjalдurs fram ad stíu.
70. Þá albúin byrdin hord,
heflud segl nam laga,
Kóngur lætur fram á fjord,
flotann allan draga,
71. Látum alla Lofdúngs drótt,
londin kanna þara,
eg vil ecki nú í nótt
neitt á sjóinn fara.
72. Lætur fundur óma enn,
endíng finna Rímu;
nætur blundur mædir menn
myrkri sinna grímu.

# Önnur Ríma.

1. Vaknar muni' og værdin flýr,
ad vísna slefnir þýngi,
bródrar duni háttur nýr,
hvellar raddir sýngi!
2. Kom þú hingad himin-skjær,
bródrar, Sydjan fína!
láttu klíngja' í munni, mær!
mínum ordgnótt þína!
3. Hjá mér vertu, veikum dreing!
von ad saungva slagi,
mýktu' og hertu hörpustreing,
hann svo dansi' í lagi.
4. Vertu kát og vid mig gód,
vina! dygdum hladin;
eg skal láta líf og blód,
lofa þig í stadinn.
5. Þér eg ann af hjarta heitt,
himins fagra vera!
og ödrum svanna, en ecki neitt
á því læt eg bera
6. Í trímadi eg þori þér
þeirrar heiti greina
og bid þig: ad þú munir mér
meyar heiti ad leyna.
7. Hún er lík ad háttum þér,
hún er ljóminn drósa
hvergi slík í heimi er,
heitir mærin R ó s a.
8. Hún mig rænir hugar-mátt,
henni er ljúft ad gégna,

eg grátbæni þig svo þrátt,
það er hennar vegna.

9. Ef Siggi' á staupi súpa má
síðu hennar viður
ekki' er raup, eg yrki þá
eins og Rósa biður.

10. Verð eg frá þér, fagra drós!
að færa háttinn tédann,
Söguna má eg leiða í ljós;
lifðu sæl á meðan

---

11. Olafs Saga áðan leið,
öðlings meingið slínga,
fram nam draga á laxa-leið,
lánga hríngbyrnínga.

12. Upp til húna vinda voð,
vaknar drofn og alda,
sérhver núna syndir gnoð,
suður á hafið kalda.

13. Kom í voðir kyljan mjúk,
kastaði mastra skrúði,
skúmið þvoði' á skeiðum búk
skutur á voggum dúði.

14. Siglu-klárum sundvönum,
sjórinn skall á brúnum,
veifaði kári vindhönum
vakurt efst á húnum.

15. Jerd nam róta jörvoda,
jafnt á hólum fíla,
stefnin brjóta stórboda
streingir á hjólum íla.

16. Orminn lánga leingi' í kríng
lágt nam tauta alda
siglu-stángir sveigdu' í hríng,
fína skautafalda.

17. Hesta sunda hartt framrak
hráfvelgs þrái tóninn,
dilladi undir drafnar bak
Dana sjá þeir frónin.

18. Gégnum Eyrarsundid svam
siglu hind í grádi,
Fornjóts keyra fóstri nam,
stey ad Vinda ládi.

19. Seglum vafdi sveit um tré
svo sem til er vandi;
Olafur krafdi' um konu-fé
Kóng á Vindalandi.

20. Féll á dátt med fridar-mund,
fyrir Kóngum bádum,
urdu sáttir somu stund,
saman druckú í nádum.

21. Hér frá stefnir hródrar-grein
hlini byrdar grana:

verdur nefna Sjóla Svein,
er sat ad veldi Dana.

22. Orma-bóla átti jord,
innfur stýrir láda
Drottning Sjóla sinnis-herd,
Sigrídur hét Stórráda.

23. Hatadi Olaf hugrackan,
hrundin byrdar grana,
Norvegs Sjóla nafnfrægan
sem níddi fordum hana.

24. Hafdi lostid andlit í,
Olafur Kóngur sprundi
handar-frosta foldin því
sylkir hata mundi.

25. Mann sinn eggja mellan fór
megnud hefnda ad vitja
herskip leggja' á humra-kór
og honum fyrir sitja.

26. Hann var leingi tregur til,
traustan svíkja hara;
þar til gengur þetta spil,
ad þeingill hét ad fara.

27. Atti von til adstodar,
álfur gullin-víra;
því Olafur sonur Sigrídar,
Svíum átti' ad stýra.

28. Þessum sendi Ödling ord,
ad enda mundu fridi,
ef hann vendi um upsa stord,
á sinn fund med lidi.

29. Hét Eiríkur hraustur Jarl,
Hilmirs mágur Dana,
einginn slíkur álms vid spjall
eldi beitti grana.

30. Hákons arfi Hlødum frá
hermist Jarlinn þessi,
hetjur djarfar hafdi sá,
á húna vænu essi.

31. Mági svinnum sínum ord,
sendi Jesur Dana,
med keppum stinnum magna mord,
móti klæda grana.

32. Jarlinn því svo játa réd,
til Jesurs finnur leidir,
Olafur Svía Sjóli med,
sextán kémur skeidir.

33. Jarl Sigvaldi Jesrum hjá
jafnan rádin kunni
Strút-Haraldar son var sá
svikum laungum unni.

34. Atti hlinur álma snar,
Astrídi til qvonar,

alda-vinur audþoll var
Olafs Tryggvasonar.

35. Baudst til fólid, slátt var géd,
fílnum venda reida,
og Norvegs Sjóla svikum med
í seggja hendur leida.

36. Þadan trylldur fólinn fer,
ad finna Kónginn blída;
Sjólar skyldu finn med her
vid Svoldar-eyu bída.

37. Svikahamur sagnir spann,
svo sem þótti haga;
Olafur Gramur vaskur vann
frá Vindalandi draga.

38. Fylgdi tamur fleinsbaldri
fram á karfa-leidir
svikahamur Sigvaldi
med sínar tíu skeidir.

39. Frú Astrídur um sem qved,
eina sneckju Vinda,
Konúngs feidum flota med,
fegur lætur synda.

40. Atkér smjúga úr audum sand,
undust segl til húna
útá fljúga eya-band,
áltir ránar túna.

41. Skjótt frá landi skríða vann,
skari siglu orma
þúngum anda' í voðir vann
velta drekinn storma.

42. Ut um reiðar kaldar krár,
kólgu vann ei flota,
ellefu skeiðir Hilmir hár
hafði í einum flota.

43. Skipin stóru' um steinbíts voll,
Stillir eptir halda,
smærri fóru á undan öll,
útá hafið kalda.

44. Sigvald flóða fílum skaut
fyrstur hafs á bóli;
fjandans góðann förunaut
feingið hafði Sjóli.

45. Pöptu-orma byr ei brast,
við bylja andann stóra,
kraptur storma keyrði fast
keilu-landa jóra.

46. Bylgjur róta söltum sjá -
sunda sáka elta
streingir þjóta rimur rá
rakkar á hjólum gélta.

47. Hrosshárs grana haukur má,
hróðrar breyta spjalli,

Svía og Dana Sjóli lá
við Svoldarey með Jarli.

48. Otal lýða Öðlíng með,
að ála-bóli leiðir,
veðrið fríða gladdi géð,
glansaði sól í heiði.

49. Klappaði vánga sjálig sól
svo frá þara reitum
á Svoldar gánga háfann hól,
hefdíngjar með sveitum.

50. Þeir Norðmanna siglíng sjá
sendist gaman meira
vagnar hranna hafið á
hópum saman keyra.

51. Sá nú þaðan sveitin greið,
synda' á túni drafnar
gullfjallaða skafna skeið,
skein á rúnir stafna.

52. Dana og Svía Sjólar það,
sögðu Orminn lánga,
vildu því með nektum nað
að nýráðs stormi gánga.

53. Kóngum Jarlinn svinnur senn,
svörum tærir fremur:
Orminn kalla munu menn,
meiri, nær hann kémur.

54. Sannleik merkur sagdi þá,
sendir jötuns orda,
Gimsum sterkur Stirkár frá
stelkinn átti borda

55. Annad því næst ad þeim bar
essid fagurt ránga;
kóngur Svía þóttist þar,
þeckja Orminn lánga.

56. Jarlinn teitur talar nei!
tel eg ráð ad bída;
þjódin leit nú þridja fley
á þaunguls ládi skrída.

57. Svía enn þá Sjóli tér,
vid sendir ættartánga:
megid kénna, kappar! hér
konúngs skipid lánga.

58. Mælti Jarlinn: mikid fley
mun nú framhjá bera,
þó eg kalla enn þá ei
Orminn kominn vera.

59. Fjórdi linninn fram hjá skreid,
fagurbúinn voda;
fimta sinni skundar skeid
skerum undan boda.

60. Hún var meiri hinum þó
hafin aptan spordi,

um fiska eyri fram sig dró,
furdu laung á bordi.

61. Dreka-hefud búsan bar
bryggju fram af spordum
seglin stefud sáust þar,
silki raudum bordum.

62. Svía kallar kóngur þá:
korda háum storminn,
forum allir fram ad sjá,
fara sjáum Orminn.

63. Aptur Jarlinn ansa vann,
eydir handar-mjalla:
kenni' eg allvel karfa þann
kóngs-skip er það valla.

64. Skjálgsson á það Erlingur,
einn sá byggir Jadar,
þó sigli frá oss fullhraustur
firda þegi skadar.

65. Oss hann leingi færist frá
ef fleina sennu kennum
þar eru dreingir djarfir á,
sem drepa menn í hrønnum.

66. Milding nýtur mál fram ber,
móti stála eydir:
ei mun hlýta' ad ædrumst vér
þó Olafs sjáum skeidir.

67. Skapleg fjandans skömm þad er,
ef Skjöldúng vid ei strídum
og óslýandi hefum hér,
en hér í kyrrdum bídum.

68. Andsvor hvessir aptur Jarl:
ei þarf slíkan vara,
látum þessi' um þaunguls hjall,
þóptu-dýrin fara.

69. Þad mun sannast, sjáum vér,
ef sverda bítur slagur,
finna manninn fáid þér
fyrr' enn þrýtur dagur.

70. Þá mun reckum þerfin stinn,
þúngum beita nadri;
eckl er þetta Ormurinn,
en Erlíngur frá Jadri.

71. Jarls var líka sagan sönn,
um sendir orma bóla
Erlíng ríkan hrakti hrönn
í haf frá Norvegs Sjóla.

72. Enn um kalda fiska-sjós,
fley ad eyu renna,
Jarls Sigvalda jálka sjós
Jöfrar nádu kénna.

73. Fjóra hesta blés um sjó,
hér nærst fram nam reka,

einn var mestur þeirra þó,
og þar á höfud dreka.

74. Skjótast gángi ad skipum her,
skrafadi Gramur Svía,
sjáum lánga linnann vér
látum hann ei flýa.

75. Jarlinn segir sinnis=rór:
Sjóli Norvegs lýda,
allmörg skey mun eiga stór,
enn er ráð ad bída.

76. Flestum sárnar setan þar,
sízt ad starfa meiga,
sögdu járna jafnhjarar
Jarlinn hugar=deigan.

77. Orda=glamma njótár nú
nádu þannig svara:
oss til skammar öllum þú
ædrast vid ad fara.

78. Reiddist Jarl og samdi svör,
sigtýrs runnum kjóla;
þér munud valla frægri för
fara enn eg til Sjóla.

79. Greip til fóta sveit í svip,
sára=ljáinn reida;
í því fljóta fjögur skip
fram um sjáinn breida.

80. Þar var dreki mikill med,
makadur drafnar-loga
ellum vekja ótti réd,
allstór hrafninn voga.

81. Gylltum skurdum grafinn var,
og gulli búinn svírí,
vakti furdu vyrdum þar
vertur á ránar-dýri.

82. Þannig allir mæltu menn:
meira skip ei sjáum
satt hefir Jarlinn sagt oss enn,
sjá hér Orminn fáum.

83. Öldin drífur ofan ad sjá,
ættar-reidir-tánga
tjeldin rífur fleyum frá,
fram á skeidir gánga.

84. Í þessum svip um síla-damm,
er svipta ná þeir tjoldum
sjá menn skip eitt skrída fram
skautadi háum foldum.

85. Geisla qveikir út um ál
álku-súdar makid
eins og leiki logandi bál
um laungu-búdar-þakid.

86. Um bordin glita gullstraumar
í gaupnir allir blína

af silfurlitum sýndist þar
sjór gjervallur skína.

87. Sólin mundi míssa skin
móti trjónu dreka,
frekt í sundur, gopti gin
sem greuji ljónid freka.

88. Tennur gjerdar gulli þó,
grenum sundur steypa,
líkt sem jord og líka sjó,
lifandi mundu gleypa.

89. Hátt frá bordum gausinn lá,
hafinn og hvoptur geystur
þar var spordur aptan á
upp í loptid reistur.

90. Allt nam glóa' er augad sjer
og andlit horfdi vidur
stjernu-sjóar straumarner
streymdu um bordin nidur.

91. Heil var stund frá hausi' ad sjá,
er hljóp á stordu boda,
þar til mundu aptan á
ítar spordin skoda.

92. Stordu hljódir þegnar því,
á þóptu-hestinn frekann,
hitnadi blódid ædum í
óttudust flestir drekann.

93. Þá Eiríkur þannig qvað,
þundum skírum veiga:
Herra slíkum hæfir það
búna-dýr að eiga.
94. Hann er mestur heims um ból
Herra' á sjó og landi,
og skipið best, sem sást und' sól,
og sýnist óvinnandi.
95. Lestra qvæða þáttur þver,
þulu bundinn notinn,
vestra flæða askur er,
allur í sundur brotinn.

---

## Þriðja Ríma.

1. Enn skal reyna óð að smíða
illa' og seina ljóða skrá,
ef Edalsteina stordir hlýða,
stirðar greinir qvæða á.
2. Eg á bágt að bagla qvæði,
býsna smátt því geingur mér
það er fátt, sem géðið glæði,
og greina-þáttinn mýki hér.
3. Í sáungva kyrkju' eg sit og blíni
Sopi-styrkir einginn hót,
þannig yrkja þrotinn víni,
það er Tyrkja-vinna ljót.
4. Svona' þreyi' eg þánkahrelldur
við þvættings greyið fram á nótt;

Rósa er eigi heima heldur,
hvad á ad segja? Það er ljótt!
5. Í syfjad auga gjörir glóra
grundin bauga ei sýnir lid,
eins og draugur einn má slóra;
ecki spaugar þetta vid.
6. Enda skal eg eins og draugur
orga' og gala þennann brag;
en þetta tal er heimsku haugur
hefti' eg galid mansaungs lag.

---

7. Þar var aldan óma þrotin,
út vid kalda húmra lá,
hlód Sigvalda sagdur flotinn
seglum tjalda-haukum á.
8. Ródri undir Eyna flýta
álma-lundur Trenu frá;
þetta mundi Þorkell líta,
þrjótsku hundinn kallar á.
9. Hví skal þannig halda knerum?
hreckjamanninn spurdi sá,
Jarlinn vann svo venda svörum:
vil eg kanna Eyu þá.
10. Mun ófridur fyrir lýdi
felast ydur, vil eg spá
Kóngsins bidu firdar fríðir
felldu nidur segl vid rá.
11. Fólkid gledur, þeingill þángad
á þaungla tredur leidunum,

stafna medur storkinn lánga
stýrdi' á vedur skeidunum.

12. Þá nam tala tarir veiga,
traustir halir greini mér:
hvar fyrir skal vid Eyu eiga,
eldin dvalir? Þorkell tér:

13. Fyrir bída fjendur brádir,
fjeldinn lýda mikill er;
Vísir! hlýd þú voru rádi,
varast stríd og flýid þér.

14. J lyptíngu upp þá stendur,
Ödlíng slíngum hvergi brá,
allt í kríngum Eyna fjendur
audmildíngur liggja sá.

15. Drafnar elda sendir segir:
Þó svidris-feldur ryfni vor
eg vil heldur fara' ad fleyi
enn flótta-hrelldur reyna spor.

16. Því skal halda hrotta kísid
og herda kaldan sára ljá
Gud á vald á landi' og lísi,
legg eg aldrei flóttann á.

17. Kóngum þótti þad ei sóma
þó ad dróttum sæki her
sakir ótta' á landi ljóma
leggja á flótta' og hlífa sér.

18. Fram hjá rendi lofdúng linna,
og ljótum fjendum móti snýr,
ad kongúngs bendíng' hér næst hinna
hans til venda súda dýr.

19. Þegar hverr á þrestum sunda,
þrísur beran sára-ljá;
Svoldar réru Eyu undan,
allur herinn Kónga þá.

20. Gjørdu dreingir gledi-hlátur,
gjervalt meingid fagnar því
ad þeir feingu sín umsátur
svinnan þeingil veiddan í.

21. Hika fóru hugir manna
hjá hyrdarstjóra norskum þar,
af eldujórum óvinanna,
allur sjórinn þakinn var.

22. Móðurbródir þengils þýdur,
Þorkell hljódur tala fer:
hér er ódum aukinn lýdur.
og ecki gódur þykir mér.

23. Á siglu-hundum hefjum trafid,
hédan skundum — Þorkell qvad —
leitum undan út á hafid,
enn er stuud ad takist þad.

24. Ellda lófa álfum sínum
einginn prófa bleydi má

þó finni hóf á ferdum sínum
og fordist grófa hættu þá.

25. Hárri raustu' Kóngur kallar,
qvídalaust og géfur svar:
takid flaustur-festar allar
og fjetrid 'traustu skeidirnar.

26. Þjódin dygga eydi ótta,
eingan hriggan vil eg sjá,
einginn hyggi' set á flótta,
festid bryggjur skeidum á.

27. Sverdin nakin sér í hendur,
seggir taki og reyni mátt,
svo til baka flýi fjendur,
Fylkir spaki taladi' hátt.

28. Pad féck sjed í sorla rockum
sveitin tjed og Kóngur hress,
skálkar rédu skunda í flockum
skáld Hallfredur gétur þess:

29. "Jesur frægi flockum þræla,
"fyrir vægja aldrei réd,
"heldur æ nam huga stæla,
"í hrotta slagi hvesti géd."

30. Svona gladur saung Hallfredur,
um sendir nada' í ljóda-þátt;
eins Lögmadur Markús qvedur,
um málid þad á líkan hátt:

31. "Kvikuadi naud á setri svana
"sverd á audum skjeldum gnýr
"sólir raudar reyndu grana
"vid randa haudur Kóngar þrír."

32. Veitir greidur varga krása,
vopn úr skeidum dregur blá,
sínum skeidum saman blása
Sjóli reidur lætur þá.

33. Skipid þramma lætur lánga,
laufaglammi þar í mid,
Ormurinn Skammi á skelja tánga
skaut sér fram á vinstri hlid.

34. Vid sídu' á Linna djarft framdregin
med dreingi stinna Tranan var,
fjegur hinna hverju megin,
húndýrin þeir bundu þar.

35. Þá Orminn Lánga og hinn Skamma
eldin stánga saman var,
ættartánga' á gotum glamma,
géfur strángur rjódur svar.

36. Framar leggid fleyid Lánga,
fljótt í eggja hardan þey;
minna seggja sídast gánga
í sverda hreggi vil eg ei.

37. Ef bjóda naud þeir bitru fjendur,
og byrjar trauda orustan,

Ulfur Raudi í stafni stendur,
stála haudur svara vann:

38. Ef menn framar Orminu leggja
af því sami er stærri enn hin
sjá til, Gramur! sara tveggja
sóknin rama' ei verdur lin.

39. Því heft' eg látid laga fleyid,
lángt úr máta, hinn nam tjá,
ad í plátu-eli megi
ædrum bátum framar stá.

40. En eg trúi, ef tekst hér slagur
traust sé flúid allt úr Þér
ad stafnbúinn Raudi ragur
reynist nú í strídi mér.

41. Þú mátt una, Ulfur svarar,
þó annad grunur segi minn,
ef lyptínguna ei verr þú varar,
enn verja mun eg framstafninn.

42. Héldt á boga álma agdi,
æsa Þogann reiti fór,
upp nam toga' og er á lagdi,
ad elda voga snéri Þór.

43. Talar freyrinn frægur spánga:
fullvel eyra læt eg mér;
en skjóttu geiri þínum þángad
sem þörfin meiri fyrir er.

44. Ei mun þykja ydur, Herra!
á ølðu blika vil eg spá,
ydar ofmikid meingi vera,
menn nær strika hédan frá.
45. Nær þetta sagði þorna-vidur,
þótti ad bragði rjena tál,
bogann lagði budlúng nidur
brésti' og þagði' um svoddan mál.
46. Sneckjan Vinda' er snótin átti,
sneggt, sem tyndri eldíng skjær,
aptan synda ad Ormi mátti,
og í skyndi þángad rær.
47. Upp þar stendur einhverr granna,
vid Ødlíng blendid tal frambar,
Nordmenn kendu' ei málid manna,
en Mildíng endurgéfur svar.
48. Svo ad landi skútan skjóta
skautst róandi Sjóla frá,
í akkers bandi fley nam fljóta
fjerusandi nærri lá.
49. Sveitin frétta Kónginn kéri,
komu-nettum-géstum frá,
hverjir þetta hefdu verid,
sem húna ketti vóru á?
50. Ødlíng landa andsvor brýnir,
álfum randa flutti skraf;

Það eru vanda vinir mínir,
Vindalandi komnir af.

51. Í lyptíng stendur stáls að ennum,
stjörnu sendir flæðar þá,
var auðkendur ellum mennum,
einga fjendur hræddist sá.

52. Gylltan hjálm á hefði bar hann
við hrotta-sálma þessa stund
búinn skálm og skildi var hann,
skarpan álm sér bar í mund.

53. Klæddur rauðum silki-serki,
sverða hauður þannig stóð,
sá nú kauða minduð merki
maktar snauða reisa þjóð.

54. Hann nam frétta hlini klæða,
Hefuds-eptir-mennum þá;
hverr á þetta herlið skæða,
hérna rétt á land að sjá?

55. Kóngur Dana Sveinn, þeir segja,
sjóar-hana þessa á;
Hilmir vanur hjal nam teigja,
hvergi banar yckur sá.

56. En hverr mun bíða' á súða-svenum,
Sjóli lýðinn frétti enn
á hægri síðu er synda Denum?
Sikling friðum gengdu menn:

57. Olafur Svía Sjóli stýrir:
sunda-kríum þángs um rann;
Ödlíng frii ord þau skýrir:
ecki flýa mun eg þann!

58. Betra' er smeikum blóthundunum,
bolla ad sleikja heima sín,
enn ad kreyka ad eggfundunum,
og eiga leik vid kappa mín.

59. Ei skal hrædast hrossa-ætur,
hvar sem flædast þeir um mar; —
en hverr á flædar-fáka mætu,
er fram á grædi liggja þar?

60. Eirík Jarl þann ítar greina,
er øldu-dalla stýrir flock;
sá mun allvel sverdid reyna
Sjóli spjallar, hárs í rock.

61. Kapppa lid mun kémpan ríka,
á karfa midi eiga hér,
nafna ydar Nordmenn líka,
er nadda klidinn temja sér.

62. Ad Drottníng herda sorgar sárin
þá sér hún ferd til bardagans
hrínga gérdar hrundu tárin
hræddist sverda ljótan dans.

63. Piljur undir lætur leida
linda grundu Kóngur þá,

Sigurd mundi Biskup beida
blídu sprundi ad vera hjá.
64. Qvæda hending líka lendi,
letin kénd mig sækir á,
brag eg sendi hreint ad hendi
hringa bendir þyggja má.

## Fjórda Ríma.

1. Hrosshárs grana hrafninn minn,
hefir vanann gamla sinn,
ef dverga bana bjór eg finn
byrjar Mana-saungurinn.
2. Ef eg smída austra-far,
á sem prýdi nockur var,
vona' eg blídar verdi þar,
vid mig frídu sjúlkurnar.
3. Þess eg ætíd óska má
ef mér lætur qvæda-skrá
sjúlkum sæti ad hafa hjá
heldur kætist sálin þá.
4. Koss ad þyggja' af klæda-reim
kýs mín hyggja fremur seim
og sæti byggja þétt hjá þeim
þá er Siggi kominn heim.
5. Himinskautum undir er
eingin þraut, sem háir mér
ef sessunaut þann hef hér
hríngalaut sem prýdi ber.
6. Henni' eg eiri' ad ødlast hjá,

svo einginn heyri, hvörsa smá,
og atlot meiri þyggia þá,
þau eru fleiri' enn segi' eg frá.
7. Kinnar varmar klappa á
fölgu bjarma fríðri gná,
og vefja arm um miðti', ef má,
mein og harmar deya þá.
8. Þeirra hrós í dul ei dreg
dikta glósu þessa eg;
þær eru ljós á vorum veg
veit það Rós a elskuleg.
9. Mansaungs bagan með það snið
má í dag svo hafa bið,
þiggur sagan saungva klið,
sverða slagur dunar við.

---

10. Þar eg bróður bíða bað,
Budlúng rjóðum þrír í stað,
greiddu róður, Gilfar að
glóaði Odins ljósa blað.
11. Kóngur Dana um hnýsu hlað
herinn manar eptir það
náði flana fyrst á stað
flóða grana laungum að.
12. Gyldur Sjóli Svíþjóðar,
sildar-bóla Kráku rnar,
að skipi Ola Ödlíngs þar,
ytsta róla lét um mar.
13. Annarsvegar aðkémur,

ógnarlega hardfeingur,
eyddur trega Eiríkur,
eggjar dregur seggja hvurr.

14. Sér Járnbarda Jarlinn á
sem Jöfur spardi ecki þá
sleginn hardur stáli blá
stelkur fjarda mundi sá.

15. Bryddur stáli Bardinn var,
sem bylgjur ála sundur skar
skégg á hálum hausi bar,
sem héck ad skála Geirreydar.

16. Skipid besta Bardinn var,
sem braut og lesti skeidirnar,
hetjur mestu höfdu þar,
hæli fest til áródrar.

17. Þorsteinn arfi Skúla skar
skilvíngs þarfar kápurnar.
og Torfi á skarfi voga var
Valbr[illegible]s djarfi sonur þar.

18. Sonur Vigaglúms eg gét,
grædi hníga sárum lét,
Vigfús týgug hetjan hét
um hrístar stíga aldrei grét.

19. Þar var Búa sonur Sveinn,
sízt nam flúa lyndis-hreinn,
Vagns nam lúa vyrda fleinn,
sem var med grúa þessum einn.

20. Tagldarbani á efsi áls
Illhugi vanur mefsu stáls
stód á grana flóda frjáls,
falinn hrana reyndi báls.

21. Vóru meiri margir þar
móins leira síd-granar
þó ecki heyrist hetjurnar
hérna fleiri tilnefndar

22. Frá Sigvalda segja má,
saxa galdur ei vill há,
lét sig aldrei seggi sjá,
svikull faldist Eyu hjá.

23. Tók ad blása í lúdra lid,
lángir ásar jóku klid
stockuls básar stundu vid
stafna rása saman nid.

24. Hverutveggja af traustri þjód,
taka' ad leggja sverd[illegible] gód
neldrudu eggja nákøld hljód
nordhvals veggi litar blód.

25. Høldar djørfu hardbogum
hendtu og ørfa þyrpíngum
og ramgjørfum gaflokum
gall vid dorvum skjalda-hlumm.

26. Orrustan mundi ærid hørd,
opin stundi hvala-jørd

hęggin tundu á hjálma berd
helli úr undum sára sjerd.

27. Eggjar hvetur Olafur,
einginn betur enn Tryggva bur
þjódir fletur þolgódur,
þessa gétur Hallfredur:

28. Dana leidur Budlúng bad
bregnum eyda' og snída í spad,
Sjóla greidum sunda nad,
sextíu skeidum lagdi ad.

29. Stafna settu' á bædi bord,
bófar þétt um hvalastord
jálka slettu jotuns ord,
járna réttu slegin mord.

30. Kóngsins lánga linna ad
létu gánga þéttskipad
stafna dránga um strauma hlad,
stillis hánga skóku nad.

31. Skatnar hófu skjóma leik,
skaut upp grófum þoku reyk,
sverdin skófu skjoldu bleik
skilvíngs rófu brynjur qveik.

32. Eggja dymma elid jókst,
odda rymma á skeidum tókst
þjódin grimma áfram ókst
í álma þrymmu brandur skókst.

33. Sterkir lustu stafnbúar,

starblinds brustu hempurnar
högg-orrustu hádu þar,
hardsfeingustu kémpurnar.

34. Ulfur Raudi áfram vód,
ódum dauda veitti þjód,
vall og saud í sárum blód,
sem ad audung heitti glód.

35. Hann þar fyrst í stafni stód,
sterkur hristi vopnin gód,
úlfurinn þyrstur er í blód
eggin risti hvern þar stód.

36. Margur elli missir þá,
makir géllur skjöldum á,
dunudu skéllir skipum hjá
skrockar féllu í kaldan sjá.

37. Nordlendínga skjæraft skraut
á skjóma þíngi vopna-naut,
álmur sýngur, orin þaut,
Audmildíngur stód og skaut

38. Sinnis-stýfur Sjóli var,
sundur rífur brynjurnar,
danska klýfur dólga þar,
dundu' á hlífum örvarnar.

39. Áfram vedur merkis-mann,
margur tredur heljar rann,
örvum medur meida vann,
Markús qvedur svo um hann:

40. "Járnaberki stefud staung
"Stillirs merki undir saung
"hildar verk um hrosshvals gaung
"hopadi hverki skeidin laung".

41. "Skárust kjólar skœvadar
"á skjoldum gólu benvargar
"Konúngs Ola einginn var
"undir sólu líki þar."

42. Dervum ota Danir þá,
dundi vota sára lá,
í erskoti Odlíng hjá,
allur flotinn Kónga lá.

43. Hjerva týrar hoggva' og slá,
hilmirs dýra lidid þá
hnigur stýris-hestum á,
Hallfredur skýrir svo þar frá:

44. "Vinum snotrum bol þad bjó
"byrgdi flotinn danski sjó,
"hilmis gotum húns med ró
"hjálma sprotum vardi þó."

45. Olafur bardist einka djarft,
adsókn harda rjenar vart,
stálin skarda skjaldar-part
skéljúngs jardir titra hart.

46. Vard til skammar skálka þjód,
styrtur hramma litar blód,

Sikling rami sundrar þjóð,
og sjálfur fram í stafninn vód.
47. Tveimur mundum Milding þá,
mímis-tundri rínar brá,
flatti sundur hefud há.
hellti úr undum sára-lá.
48. Hlífar myljast hrundi þjóð,
þar hárs ad byljum Gramur stód,
rann í hyljum rauda blód,
rétt af þiljum nidur í flód.
49. Hilmir vana heidur bar,
hnikars svanur greidur var,
rødul grana reidir þar,
og rydur Dana skeidirnar.
50. Hans vídræmast hrósid má
hernum slæma ílla brá,
skipin tæmast, skálkar þá,
til Skrattans slæmast þeir, sem ná.
51. Preyttur, sár og svívyrdtur,
úr sverda fári lúdrar hvur
Danir báru daufan kur
dá-sannspár var Olafur.
52. Hrodin fleyin syndtu' um sjá.
sundurslegin Dønum hjá,
Markús segir svo þar frá,
í sinni eigin ljóda-skrá:
53. "Illa sóktist sverda hregg,

"Sveini og drótt þá reyndu egg,
"hladinn ótta lá'r á legg,
"lagdi' á flótta undan segg".

54. Sturlu fundur Snorri hér,
frá stálafundum þannig tjer:
nær dró sig undan Dana her,
ad Degling skunda Svíarner.

55. Olafur svángur sverds í klid,
Svía þángad færdi lid,
tókst í fáng ad tapa frid,
og tuskast lánga Orminn vid.

56. Sókn vard aukin seggjunum,
sara lauk ei hreggjunum,
eldur rauk úr eggjunum,
á sundhauka veggjunum.

57. Hróp og eggjan eigi brast,
allir leggja sverdum fast,
á Ormi seggir umridjast,
og álma hreggid sóktu hvasst.

58. Sverdin nakin sveitin skók
Svíum aka' í daudans mók
vopnabrak og bresti jók
brimils þakid undirtók.

59. Dreirinn rann í djúpan ál,
daudans spanna þrælar skál,
eggjar tanna eitrad stál,
orgudu ranna gínars bál.

60. Nætrudu flóa efsin öll,
átti gróa' á hjálmum skell,
þrumudu sjóar-kletta fell,
keilu gróin skélfur hell.

61. Eggjar spannar Olafur,
opt, Nordmanna Konúngur
þiggur bannid þræla hvur.
þetta sannar Hallfredur.

62. Af Svíum erum sagt er það,
sveit ósper med Kóngi trad,
sleina-bør um fiska-hlad,
fimtán knørum lagdi ad.

63. Reyndu glappar raudan nad,
ró burt slapp en hjørinn qvad,
vard til happa varla þad
verdust kappi Nordmenn ad.

94. Skútur hraud við skjóma vein,
skóku audan Nordmenn stein
egglin raud yfir øllu gein,
ótal dauda feingu mein.

65. Svíum leidast lífid sór,
losnar skeid úr teingslum stór;
hvíldar beidist háttur sljór,
herjans eydist kéra sjór.

66. Jeg er sáttur nú í nótt,
þó nadda-sláttur fari hljótt,

Rímna-háttum skipti skjótt,
og skríd í náttar-bæli rótt.

---

## Fimta Ríma.

1. Hugann hvetur háttur nýr,
hyrdir metur seima
medan vetur vedrum spýr
vel er setid heima.
2. Ef sudra slánm saman skip,
sinnis þjánm dofa,
med leti, þrá og ljótum svip,
lítt mun tjá ad sofa.
3. Jeg er þó ad nockru nær,
nordra hró ad byggja
þá ef svád sorgum fær,
sjós eyglóar tryggja.
4. Feiginn vanda vildi ljód,
vogabraudur ósa,
þér til handa gégn og gód
gullinbanda R ó s a!
5. Samt vill grunur sannur spá,
ad sólum funa rínar
færsinn muni faliast á,
fávitskuna mína.
6. Tími lítill midlast mér,
mærd ónýta' ad grunda.
þetta flýtirs ydja er,
annad hlýt ad stunda.
7. Því vill ærid illa' og seint,
ódar tærast letur,

skárra væri' ad hætta hreint,
og heima læra betur.
8. Samt mun verda' ad vakna svar,
og voku skerda sprundum,
streingi herda hörpunnar
og herma' af sverda-fundum.

---

9. Þar eg hölduum lokid lét,
lagar öldum grana
glumdi á skjöldum skjóma hret
skálkar qvöldust bana.
10. Nordmenn slá og eyrdu ei,
óma gljáir rodinn
þeir stafnljái færdu' á fley,
flest þau láu hrodin.
11. Blódid dundi á brimla tjörn,
bófar hrundu í grúa,
Svíum mundi veiklast vern
vildu undan snúa.
12. Med hetjum straungum geist framgéck,
Gilsi í slaungu vedur,
hlífdi aungvum hetjan þeck,
hér um saung Hallfredur:
13. Hugardeig var Svía sveit,
sízt má feigur tóra,
hrædslu geigur hjartad beit
vid hyrdar eiga stjóra.

14. Traudir dóu á tjald-endum,
tók vid óa skadann
skipin hjóu úr hald-bøndum
hradast róa þadan.
15. Høfdu tapad manna mergd,
mikid hraparlega;
þad var skapleg skammarferd
skjómar gapa vega.
16. Mjøg sannspár vard Sjóli ad því
af seggjum báru ei fríum,
lifdu sára eymslum í,
þeir eptir váru af Svíum.
17. J rømum gný vid randa-spjell,
rauna stíu átti,
Dæna' og Svía øldin øll
undan flýa mátti.
18. Nú skal minnast Eirík á,
ad hann vinnur fleira
medan hinna herinn lá,
hætt í vinnu dreyra.
19. Ad skipi ytsta Olafs hann,
allra fyrst nam leggja,
sundur risti margan mann,
mesti hristir eggja.
20. Þétt vid sídu Bardann batt
og báru skídid hrydur

úr festum síðan hjó það hratt
hin tók stríða viður.

21. Gjerði mesta manna-tjón,
þar málmar bresta' í rendum,
Hilmis besta húna-ljón
hjó úr festar-bøndum.

22. Nær fiska-kórum steyin á,
úr festum vóru gripin,
liðið fór að þeysa þá,
á þau hin stóru skipin.

23. Heggorustu háði Jarl,
með harðfeingustu þjóðum,
hlífar brustu, skálmin skall,
í skjóma gusti óðum.

24. Seggi naður suma va,
sára-staður grætur
aðra' í staðinn óþreytta
á skeið raðast lætur.

25. Jarl lét roðin járna-trell
jafnhárs voð svo stánga,
að skip vóru hróðin Olafs öll
utan gnoðin lánga.

26. Komin þángað þá var øll,
þjóðin stránga Sjóla,
viðir spánga fengu fell
fjølnis stángast kjólar.

27. Jarlinn þángad þoka bad
þrestum ránga mætur
stafna-lánga stocknum ad
stórskip gánga lætur.

28. Lángbards skarast logbrandar
laufa hjarir vedur
margir farast meiddir þar
Markús þar um qvedur:

29. "Ærid snarla steyin fimm,
"færdi Jarl ad Ormi,
"sverdin harla gjerdust grimm,
"grana small í stormi."

30. Jarl hid stránga járna-mord,
jók vid hánga óra,
Ormsins lánga batt vid bord,
Bardann ránga stóra.

31. Rysnar galdra fedurs flík,
fyrr vid skjalda vedur,
sáust aldrei undur slík,
eins og Halldór qvedur.

32. Framm í var á steyi Jarl
fólks er skari veginn
um-skíran Hara skálms vid spjall,
skjaldborg var þá sleginn.

33. Kappar allir hamast hans,
hrönnum falla lýdir

sókti Jarl í dörva dans
dunudu fjalla-hlýdir.

34. Skotvopn þutu þétt sem mý,
og þundar brutu klædi,
spjótum skutu skatnar því,
og skæda hlutu mædi.

35. Angurs drúnga ítar fá,
undir þúngum hjálmi
skarir sprúngu skjøldum á
skjómar súngu' á málmi.

36. Vopnaburdur voda stór,
vakti furdu lýdum,
hlífar murdust sára sjér
saud í skurdum vídum,

37. Hremsur breidar þutu þétt,
þúngar skeidur stynja
byrgdist heidur himin slétt,
hrosin sneydist brynja.

38. Øllumegin Orminn vid
ítar fleyin binda
þjód var slegin stáls í klid
á sléttum eya linda

39. Hetjur gódar Ormi á
æda' ad þjóda mordi
gjørdust ódir allir þá,
og uppá vodu bordin.

40. Mjeg óveilir mord ad há,
megnud deila lifnar
Bardann seilast ofan á
umgjord heila rynsnar.

41. Eingu sinna ødru þá,
álfar linna teitir,
enn ad vinna mest sem má
og myrda hinna sveitir.

42. Í fjanda mord svo þyrstir þá,
þúnga korda réttu,
ad síldar stord þeir æddu á,
út af bordum sléttu.

43. Því eckert trolltur annad sá,
ángri fylltur skarinn
enn velli stilltum stædi á
og stigu villt í marinn.

44. Suckn nidur sjáinn í,
serkjum vidris medur,
um hetju lidid lýsir því
í ljóda klid Hallfredur:

45. "Pad var skadi, mæddir móð,
"múnir gladir vinir,
"suck'u af nadri nidur í flód
"naglhrings blada hlinir."

46. Á Eiríks karfa einn var þar,
vid adsókn djarfa ramur.

Finnur arfi Eyvindar,
eggja- starfi tamur.

47. Öld um rastar elda ver
utan last það sannar
handsimastur bogann ber,
beinskeytastur manna.

48. Í rúmi krappa Ormi á
Einar happasamur,
skaut af kappi kauða þá
korda-stappi tamur.

49. En norski Finnur sami sá,
er sjáar hlynnir loga,
smíðis-vinnu átti á,
Einars stinna boga.

50. Einars hendin eigi spör
á upsa stendur hjalli
af boga rendi einni ör
og Eirík sendi Jarli.

51. Ofar slapp sú hausi hins
hremsa', enn kappann lysti,
í sterkum knappi stýrisins,
stóð, og happið misti.

52. Jarl viðbrá og samdi svör,
sveitin má oss greina:
hverr var sá, er sendi ör,
sú mér lá til meina?

53. Í því senda aðra vann,
álma bendir snjalli
undir hendi hægri rann,
hún á kenndum Jarli.

54. Milli síðu og handar hans,
hún framskríða náði,
kom á lýða stýrir stans,
stilltur síðan tjáði:

55. Tak þú, Finnur! boga brátt
baga stinnum forðum,
skjóttu hinn þann mikla' ef mátt,
mann á linna storðum.

56. Alfur veiga ansa fer:
þar álma sveigir þjóta
trauðla meigum megna vér,
mann ófeigan skjóta.

57. Hitt skal reyna hvert eg má,
halsins skeina boga,
bíldor eina upptók þá,
elda reynir loga.

58. Skorpum fleini skjóma þór,
skaut á Einars boga,
þegar reynir þróttar stór,
þennan seinast toga.

59. Streinginn lesti lausinn mjór,
sem lensu hvesti þundur

heyrdist brestur hár og stór
hruckn festar smidur.

60. Hilmir skjótur heyrdi þad,
vid hrínga-njótinn rædir:
beiddi fljótan herma hvad,
hátt svo þjóta nædi?

61. Einar tjer: mín sögn er sú,
sjáum vér hvar lendir,
brostinn er med naudum nú
Norvegur þér úr hendi.

62. Svo stór brestur ei mun á
Ödlíng hresstur spjallar,
Gud mun best um bygdir sjá,
enn bogi lestur valla.

63. Tak sem brádast boga minn,
Budlúng tjádi' og fleygdi;
þetta náti þiggja hinn,
og þann med rádi sveigdi.

64. Strax hann dró fyrir oddinn er
á ofur-skjófum boga,
géfur þó med gætni sver
geymir sjóar loga:

65. Veikur bogi alvalds er,
þó upp eg togi streinginn,
hremsu flogi þróttur þver,
þessum vogi einginn.

66. Til Konúngs aptur kastar álm
korda - raptur frídi
greip svo skapt á gyldri skálm
géck med krapti' ad strídi.
67. Vinstri hendu hrífur skjeld
hafs á lendum klára,
flæmdi end úr fanta eld
og steingdi vendum sára.
68. Alldjarflega brautst fram beim,
vid bófa trega' ad stíma;
mig eg dreg frá honum heim,
hættir þegar Ríma.
69. Prjóti ræda lundin lýr,
ljót vill mæda baga,
njóti klæda hrundin hýr,
hljóti gæda daga.

## Sjetta Ríma.

1. Fedurs magna módir rjód,
mjaldurs tjalda loga,
qvædum fagur frödum gód
fimbul - sagna bjódum ljód.
2. Einars Rímu orma á,
alda baldur hlýda,
stórvirks hímu stormur má,
stesja núna forma ská.

3. Hár ei spari mærast mér
munngát tunnu sinnar
árar vara bæra ber
ef bátur starblinds tærast hér.
4. Rímu eina um raddar slóð
rjóðar klæða tóni
vildi hreinan eignast óð,
eðalsteina grundin rjóð.
5. Því og hrósa þorum vér,
þrátt í háttum braga
ef ódar glósu eg framber,
unir Rósa vel hjá mér.
6. Í faðmi sætu siðlátrar
sitja og flytja qvæði,
allur bætist ami þar,
andans kjætast hræríngar.
7. Því skal glansa græðis ver,
góða tróðan klæða,
líf og sansa líka hér,
láta dansa fyrir þér.
8. Dvergmáls hljómar dylli þér,
dælum gjælum meður,
fjalla tómu tindarner,
tóna rómiun herði mér.
9. Aðra siesun eg svo vil
á austra flaustri taka:
kasti svefni seima bil,
Sögu-efnið kemur til.

---

10. Þar var greina þrotið smíð,
og þundar sundum lokið,

þegar Einar átti stríð,
og íllar skeinur veitti lýð.

11. Í lyptíngu' á Ormi stóð,
Olafur Sjóli frægur,
skaut Mildíngur skálka þjóð,
skálmin sýngur, rennur blóð.

12. Með gaflokum særði sá,
í senn þá tvennum beitti,
hans jafnoka aldrei má,
að heimslokum þjóðin sjá.

13. Það er manna mál: að hann
mesta hreysti sýndi,
allteins sannar úrskurð þann
óvinanna frásagan.

14. Herra slíngum hrós er tjeð,
heims um geima alla,
heiðurs klíngir hljóðfæred,
Hallfreður sýngur undir með:

15. "Eigi játa ítar hér
"ennþótt renni víðar,
"freyu gráta frægri ver,
"enn Fylkir káta bestann mér."

16. Hugdirfð Ola Ödlíngs var
yfir drifinn máta
að hann fól sig ekki par,
sem aðrir sjólar gjerðu þar.

17. Fram med brandi ólmur ód,
í øllum Stillirs skrúda,
áhorfandi í augsýn stód,
allra fjanda sinna þjód.

18. Otta hrædast eingan var,
Olafur Sjóli mátti,
en sjálfur ædir áfram þar,
sem innir qvædi Hallfredar:

19. "Olafur fann ei Budlúng bann,
"blódi slód var rodin
"lét um sannar sakir hann,
"sverdin tanna spillvirkjann."

20. En því audsærri, sem hann var,
og sendi fjendum bana,
øllum nærri Ødlúng þar,
óttinn stærri hjartad skar.

21. Pad sá drótta þeingill snart,
þjódin móda reiddi
sverdin ódt og einka hart
en samt þóttu bíta spart.

22. Einn kóngsmanna ordagjerd,
ítur flytja nádi
sverdin banna ad bíta sterd,
þó brynjur tanni stálin herd.

23. Kóngur vinnur komast nær,
kistu fyrst hásætis,

sverdin sinnur skerp og skjær,
skeknum stinnum vopnin ljær.

24. Hraustir menn það horfðu á,
þá hendi vendi gramur
blóð hans rennur brynju frá
brodda spennir sár var þá.

25. Sóknin mesta þjáði þjóð,
þar í fyrirúmi
liðið flest þar sterkast stóð,
streymdi um hestinn ránar blóð.

26. Um miðsvæði á árakló,
ítar þreytast hljóta
Fylkirs gæða fólkið þó,
flest af mæði' og sárum dó.

27. Undir spúðu ædafjerð,
atadist skútan blóði,
stundi úðar opin jerð,
eggjar gnúðu hjálma-borð.

28. Randa slagur ramaukinn,
reckum þeckum eyddi,
hrafna braga bálin stinn,
blóðug naga herklæðin.

29. Þrumuðu hlífa hleckir fast
hamra glamra trellin
skildir rýfast, brynjan brast
barða skífir sverðið hvast.

30. Nær mannfall háðist Ormi á
Illhugi spillir friði,
Tagldar-bráður-bani þá,
bryntrölls gráðið vildi há.
31. Uppá lánga Orminn rann,
óður rjóður korða
við stafna tánga vaða vann
vísirs hánga glóðin brann.
32. Sjer Indriði Ilbreiður
upp þar kappan renna,
að fleina viði framtreður,
í fornjóts hvíðu sár-reiður
33. Hönum móti hofðar stríð,
hríngjur sýngja viður
áttu ljóta odda-hríð,
álma-njótar lánga tíð.
34. Hjuggju stórum sterkir tveir
stundi sunda trana
í sverða órum glumdi geir,
garpar vóru frægstir þeir.
35. Heggin-drífa' á hjarnar-fjöll,
hregg úr eggjum dundi,
beggja hlífar brands við göll,
blóðug rýfa hjálma tröll.
36. Báðir herða móð og mátt,
muldir bylðu skyldir

meira' ei verdur einvíg átt,
orgadi sverd á hlífum blátt.

37. Hverr gaf ödrum svedu sár,
sjóir flóa æda,
af eggteins fjödrum blossi blár,
braun á jedrum skjaldar hár.

38. Illhuga sendi æfi baun,
Indridi' í vindi grana
ad dreingskap kéudur deya vann,
datt orendur nidur hann.

39. Þad Eiríkur ötull sá,
ad Illhugi féll í strídi
lánga strýkur Orminn á
ódins slíkum vasinu grá.

40. Þar um midja siglu senn,
sá hann fáa standa,
þángad rydjast ólmir enn,
Eirík stidja fimtán menn.

41. Móti honum Hyrníngur,
hugadur mágur Sjóla,
géck ad honum grimmlyndur
á grædis kouu fjelmeanur.

42. Med þeim vard hin mesta hríd,
á málmi skálmir tóna
þókti hardast þeirra stríd,
þjódin bardi norska lýd.

43. Hart framvedur Hýrníngur,
hrennum mennum bilti,
sverdi medur máttharður,
sem Markús qvedur Lögmadur:
44. "Hrakti þann, sem heiptin skér
"Hyrníngs vernin stóra
"konúngsmanna allra er,
"ædstur hann það sönnum vér."
45. Hart svo bardist Hyrníngur,
heillir Jarlinn misti,
ofan á Bardann ösugur
ana vard med slæman kur.
46. Þeir, sem báru þángað geir
med þeingil feingu bana
úr þúngu fári þorns med geir
þrútnir sárum komust tveir.
47. Hyrníngs mundi' á mastra jór
meingið leingi hreysti;
Þórdur kundur Kolbeins rór
qvad um undur þessi stór.
48. "Hjálms þrúdvalda Hyrníngs sverd
"hót ei spjótin bíta,
"þó tindar faldi flata jörd,
"syrnist aldrei vernin hörd."
49. En nær Jarl var ösugur,
af Ormi' í stormi keyrdur

af eggja svalli erþjáður
Olafur spjallar Tryggva bur.

50. Hvad er undra er eg sá?
ítar nýtir hafa,
Jarli hrundid hédan frá
hángnum sunda Bardann á?

51. Ansar meingid ama skérdt,
ofan skræfan flúdi;
svarar þeingill þjódum bert:
Þad var dreingilega gért!

52. Von þá einginn meinar mér,
minn ei vinnist dreki,
allt svo leingi þægdar þver,
Þór hjá dreing í stafni er.

53. Þór oss valla' móti má,
mein ad neinu vinna;
heyrdi Jarl hvad hann nam tjá,
og herinn allur kríngum þá.

54. Flest var Eiríks fallin þjód
í fjordinn særdann dreyra,
rann af freyrum randa blód,
raudur geirinn á þeim stód.

55. Þeir, sem fundust flóds í mar.
fjeri eru medur,
flektu sundur særdir þar
svella undir blódugar.

56. Þókti vandi æriun á,
Eirík geira-jeli;
hann ad landi lagdi þá,
lánga banda-jörnum frá.

57. Dana' og Svía svejtir med,
synda ad landi knerum
hrædslu flýa fýsti géd,
fánga nýa hressíng réd.

58. Hrosin sundur herd var gérd,
þraktir flektu í sárum,
norskra undir íta sverd,
einginn mundi verri ferd.

59. Heidurs róm þú hljóta skalt
hyrdir nordurríkja
þitt skal hljóma hrós ávalt
um hnatta tóma rúmid allt,

60. Höfdíngjarnir hrakader,
halta' ad Svoldar vogi,
rádavarnir reyna sér;
ríman sú'arna búín er.

61. Þjód forsmái þræla rád,
þeim vid gleyma skulum;
ódar skrá er enda kljád,
eydist Þráins kéra sád.

## Sjöunda Ríma.

1. Setst eg enn vid sultar-braginn
svíptan prýdi;
en nú vill fara' ad smæcka smídi

2. Svipar ad mér, seint vill þrióta
Sogu Skrattinn,
skal hún nú fá skømm í hattinn.

3. A seinni hlutann sækja fer
þó sofni þrekid,
eydist flest, sem af er tekid.

4. Nú er eg búinn ad noldra Rímur
nockrum sinnum,
Registrid hér ritad finnum:

5. Af Bragda-Ølvi brag eg gjørdi
í basli letra,
átta þá og þriggja vetra:

6. Af Cyrus kóngi og Kambyses
eg qvædi samdi,
af Hrappi sídan ljód fram lamdi.

7. Af Hálfdáni Barkar bur
féck bragi píka
Hemings þátt eg þuldi líka.

8. Um Hlýdarenda Gunnar gát eg
gaulad bøgu,
af Jómsvíkinga slúngum sogu.

9. Af Hédin kóngi' og Högna forðum
hóf eg ræðu,
þar með líka af Þórði Hræðu.
10. Af Fertrams hefi raunum ritað,
Rímna galið
er nú líka allt framtalið.
11. Eg skal segja yckur bræður!
ennþá fréttir:
Svoldar Rímur átt' eg eptir.

---

12. Um ráðagjørðir ríkra Kónga,
Rímu vekur,
Eiríkur til orða tekur:
13. Eilíf verður ockar smán
á øllum tíðum,
meðan byggjast lønd af lýðum.
14. Ef Olafur kóngur undansleppur
ockar høndum,
og heilli þjóð frá þremur løndum.
15 En hann verst á einu skipi
ockar fjølda,
særða og þreytta hefir helda.
16. Veitið mér því valið lið
í voðum grana,
svinnir kóngar Svía og Dana!

17. Föður míns eg hefna hlýt
á hilmir freka,
og háðúng oss af hendum reka.

18. Því svo mun fara, Siklíng nema
særðan þjáum
ámæli vér allir fáum

19. Þagnar Jarl, en gautar gjerðu
grettis bóla
mikinn róm að máli Sjóla.

20. Kóngar tala þá um það
og þjóðin káta
að Jarli skyldi lið til láta.

21. Eiríkur þá eignast skyldi
Orminn lánga,
ef hann mætti Olaf fánga.

22. Priðjúng Norvegs þeingill sérhverr
þyggja skyldi
ef Olafur kóngur hnígi í hildi.

23. Þegar létta þessum málum
Þeinglar snjallir,
til bardagans þeir búast allir.

24. Digrum kesjum dróttin bregður
Dana' og Svía,
hverr nam oðrum hugar fría.

25. Allir sögdu: aldrei skyldu
undangánga,
fyrr enn ynnu Orminn lánga.

26. Jafnsnart lætur Járnabardann
Jarlinn laga,
og skrocka þadan dauda draga.

27. Þadan flutti særda sveit
og sóknar veila
en velur þángad hvílda' og heila.

28. Ver þad mál í munni líka
meingid dýrast,
Jarlinn hét hann skyldi skírast

29. Ef hann feingi unnid lánga
ára nödru,
menn þad líka marka' á ödru.

30. Því nam taka Þór úr stafni
Þeingill mætur,
og rúdukross þar leggja lætur.

31. En nær Jarl var albúinn
á ísu stordum
Þeingill talar þessum orðum.

32. Vidur nockurn vitran mann
á voga essi:
Þorkéll hái heitir þessi:

33. Eg hefi marga hildi háð,
svo Hari spjallar,
og sjálfur líka unnið allar.

34. En hvergi vissa' eg verri menn
til vopna-fánga,
eins og þeir á Ormi lánga.

35. Enda sá eg ekkert fley
við eggja storminn,
torsókt vera eins og Orminn.

36. Veit eg, Þorkéll! vitur ertu'
og vanur stríði
legg nú ráð svo reckum hlýði.

37. Þorkéll svarar: það er ráð
sem Þeingill lagði,
og Olafur kóngur sjálfur sagði.

38. Eitt sinn þegar um var rædt
á ísu brunni,
að trauðla mundi Ormur unninn.

39. Sagðist kóngur sjá það ráð
ef sókn skal herða,
að Ormurinn mundi unninn verða.

40. Ef bjálkar væru' á borðin feldir
báru dýri
svo hallast færi' á hnýsu mýri.

41. Audveldara á þeim verdur
upp ad gánga,
óvinum á Orminn lánga.

42. Þetta ráð eg þecki best,
nam Þorkell greina,
og vern í máli veit þá eina.

43. Bjóst nú Jarl og bjálka lét
á Bardann flytja,
um lánga vill svo linnann vitja.

44. Medan frægur milding bjóst
ad málma ennum
lækninga var leitad mennum.

45. Hermt er svo, ad hofdingjar
á hnýsu eingi
mannutjón hefdu mesta feingid.

46. Aptur þángad ónars kémur
ára slánga,
Olafur stód á Ormi lánga.

47. Lid hans píndu sollin sár,
og sóknar þreyt...
Odling bádu undan leita.

48. Sogdu menn ef sigrud yrdi
sveit á grædi,
ad hættan mest á honum stædi.

49. Okkur munu géfa grid
þeir grimmu fjendur,
ef ydur ei fá í íllar hendur.

50. En er mønnum hægt ad hefja
húna trafid,
og undan sigla út á hafid.

51. Og svo sigla eptir lidi
Ødlíngs frída,
og sídar þá vid þræla strída.

52. Olafur Kóngur ansar hátt
og upp þá stendur,
aldrei skal eg flýa fjendur.

53. Medan hefi' eg heilan knør
á haudri svana,
þó eg af því bídi bana.

54. Orétt víst er óvinunum
undan snúa,
litla hefi' eg lyst ad flúa.

55. Ecki er heldur enn þá víst
þeir Orminn vinni,
þó aptur sýngi sára linni.

56. Kappar margir enn þá eru
oss til varnar,
ef eggja saungur aptur harðnar.

57. Þegar Kóngur þýðu máli
þannig snéri.
Vinda-sneckjan kom að kneri.

58. Firðar sjá, að formaður
á flæðar-hesti
við lyptínguna fleyið festi.

59. Sá qvaðst vilja ota egg
á ættartánga,
og Oðlíngs til á Orminn gánga.

60. Segist vera fús að falla
fylkir meður,
þolgóður, ef þannig skéður.

61. Oðlíng segir: ecki má það
ockur stoða,
að leggja yckar líf voða.

62. Gagna mætti heldur hitt
að héldud kyrrir
þar sem løgdud ferju fyrri.

63. Aptur réru ítar burt
og akkér kasta
fljóta létu fylid rastar.

64. Eiríkur í annað sinn
að Ormi lagði
herðu girdtur hlífar flagði.

65. Svía og Dana sveit kom með
að sverða stormi,
stefnum tóku' að stinga' að Ormi.

66. Þeir, sem komust ekki að
með ára sóta
ervum náðu' á Orminn skjóta.

67. Eiríkur að Ormi rær
með øllum þrótti,
braka mjøg í borðum þótti.

68. Gullið allt um sex og svíra
sundurbrýtur,
skeiðin langa skaða hlýtur.

69. Hrykti fast af mesta megni
í máttar-vidum
svo rángir brústu' á bádum hlidum.

70. Sídan lagdi síbyrdt kner
ad sídu Ormi,
med ógnarlegum eggja stormi.

71. Leidist mér um lausa sennu
lengur þvætta;
skal nú ekki skárst ad hætta?

---

## Attunda Ríma.

1. Hródrar grunda háttinn má
hrannar roda gérdur
mín áttunda mærdar skrá,
mønnum bodin verdur.

2. Eg hefi barid brag á ný,
bón ad gódra vina
lítid varid er þó í,
efnid hródrar lina.

3. Þá kuldinn vetrar keyrdi á,
klárin ljóra gróna,

jeg í fleti latur lá
og ljóðin fór að tóna.

4. Heims eg gleymdi háttum þá,
á hvíldar-miði dyggva,
og mig dreymdi: að eg sá,
Olaf niðjann Tryggva.

5. Að mínu færðist fleti hér,
fingra haudur klaka,
klæði hrærði á herðum mér
hann og bauð að vaka.

6. Þannig skýra þýður fer,
þorna trúi haudur:
Skáldið hýra' er hofðum vér
Hallfreður nú er dauður.

7. Skáld mitt kjósa því skal þig
þaudur-neista rínar
ljóða glósu' um lyndis stig,
laga' um hreysti mína.

8. Því skalt vanda þessa skrá,
þú með hætti fljótum;
upp eg standa þeinkti þá
en þilið mætti fótum.

9. Svgðum glaumi síðan brá
svefna-mók nam styrkja

allt var draumur sem eg sá,
samt eg tók ad yrkja.

10. Fleiri vinir fýstu þá
frædin gyld ad næra
ad eg lina ljóda=skrá,
í ljósid skyldi færa.

11. Því vill ljósa gradis grér
gledja qvædid fría;
eins má Rósa þylja þér
þetta frædid nýa.

12. Hér skal máta mansaunginn,
og mækja' stormi finna,
litars bátinn læt eg minn
lánga Orminn finna.

---

13. Mansaungs lýkur máli þar,
mjøg á geima endum,
Jarl Eiríkur brandinn bar,
og bardist tveimur høndum.

14. A Járnbarda áls um stig
æstist skjalda=vedur
Jarl ei spardi sjálfann sig,
svo sem Halldór qvedur.

15. Hetjur Olafs ærdust fast,
med ógna mordi bordust,
hrana sól á hjálmum gnast
hardlega Nordmenn verdust.

16. Orka réd ei á þeim geir,
eda' pínu veita,
hvíldar medan máttu' þeir
mæki sínum beita.

17. Drápu marga dörvum blá,
dunur málma þýngja,
íllsku varga' er þjádu þá
þúngir hjálmar sprýnga.

18. Þjádi ótti þræla leynt
þrótt og dád svo hrekur
Jarli þótti sækjast seint
til sinna ráda tekur.

19. Þar af bidu margir mord,
mátti ad eingu géra,
hann stórvidi vatt á bord,
voga laungum héra.

20. Undrum hallast Ormur þá,
adsókn hvessir betur;

Markús snjall í mærdar-skrá
um meinsemd þessa getur.

21. "Beiddi fella' á bordin tré,
"býtir ligru mjalla,
"hefdi ella Eiríke,
"Ormurinn sigrast varla."

22. En nær hallast Ormur tók,
í unda-skéra hreggjum
mannafallid mikla jók
mjög af hverutveggjum.

23. Dundi hrídin randa raud,
reckar sánga bana
bordin vída urdu aud,
á eldu lánga grana.

24. Skjómar stánga skildi blá
skipti Odins rockum
tók ad gánga Orminn á
Eiríks þjód í flockum.

25. Reida branda og bitur spjót,
ball á tjorgum audum,
hinir standa hart á mót,
og hrinda mergum daudum,

26. Sjá stafnbúar lidid leitt,
laga ferd med brøndum,
móti snúa grimmir greitt,
glamradi sverd á røndum.

27. Vidnum hraustir hertu djarft,
hlutu naud óvinir
áfram braust nú einka hart
Ulfur Raudi og hinir.

28. Margir falla í branda byl,
bugast fjerid stránga
sóktu allir Ødlíngs til
aptur á knørinn lánga.

29. Brøgnum frídu bilar gerd,
blinds vid storminn lánga
á allar sídur manna mergd
mátti' á Orminn gánga.

30. Uxafótur Þórsteinn þar,
á þóptu skídi stendur,
hrínga-njótur samdi svar,
þá sá hann vída fjendur:

31. Vopna snerra er þúng og þrá
þraut má nøgri qvída,

skal nú, Herra! hverr sem má
hels á dœgri stríða?

32. Ödlíng þecki andsvar baud,
ei med línum huga;
því skal ecki nú í naud
nadda-hlinur duga?

33. Sló sem horfdi Þorsteinn þá,
þróast mordid freka,
einn sem fordi íllur gá,
uppá bordid dreka.

34. Knefinn vánga' á vondum sló,
vomur laut ad fári;
fleygdist lánga leid á sjó,
látinn flaut þar dári.

35. Þorsteinn rás á þiljum jók,
þá frambraust um stundir,
beiti-ásinn ólmur tók,
uppí hraustar mundir.

36. Odur hamast álma þór,
allt um kríng sig bardi
búka lamar burda-stór
best lyptíngu vardi.

37. Hopa vann því hverr sem má
hrædslan allá þjádi
Olafur manninn ódan sá,
á hann kalla nádi.

38. Þú munt verda þreyttur mest,
þorna=sláttinn vidur,
taktu sverd og beittu best,
bjálkann láttu nidur.

39. Þessu hlýda Þorsteinn vann,
þrífur sverdid bjarta
sundursnídur margan mann
molar gérd í parta.

40. Blóds í skúmi skjaldar-berd,
og skirtur jára merdust,
í fyrirúmi hríd var herd
hetjur sárar vordust.

41. Margir sprúngu af mædi har
- meidsli dreingjum svída,
hjartad þrúngid harmi var
hnígur meingid frída,

42. Olafur Gramur Eirík sá,
ad lyptingu vendi,

kéſjum framur þremur þá,
þángad ſlíngur rendi.

43. Omisſeingur Ödlíng ſnjall,
á var fundi þegna,
kéſjan eingin kom á Jarl
kynjum mundi gégna.

44. Geira-baldur gaf til ans
þá gat ei karlinn hæfa:
ſvo eg aldrei miſti manns,
mikil Jarls er gæfa!

45. Guds mun vilji gódur ſá,
ſem gédi manna líki,
á eg ſkuli Norveg frá,
en nái hann þar ríki.

46. Sú mun honum géfin gipt,
Gramur ríki ſkrafar,
um ſtafnbúana ſkilſt mér ſkipt,
Skjöldúng líka hafa.

47. Vóx nú brakid vopna þar,
varnir manna fara,
Ormurinn þakinn allur var
óvinanna ſkara.

48. Vóru fáir varnar menn,
sem vidnám festu happa,
féllu þá í svipan senn,
sægur bestu kappa.

49. Þorgeirr Hneig og Hyrníngur,
herdum því fyrir brandi,
vard og feigur valdaudur,
Vikar af Tíundalandi.

50. Leid þar dauda dádrackur,
derva skjótur meidur,
Ulfur Raudi orendur,
og Indridi Fótabreidur.

51. Ivar nýtur Ljómi leid
líka strángann bana,
Þorsteinn Hvíti þádi deyd,
þar á ránga grana.

52. Líka Skélkur Þorsteinn þá
þúngan baga gisti
húna stelknum einnig á
æfidaga misti.

53. Ótál fleiri afreksmenn,
á valstrendu gistu,

þúngum geiri særdir senn
sína öndu mistu.

54. Um Eiríf Jarl þad inna má,
álma hristir ríka
kappa alla sína sá,
sjálfur misti líka.

55. Stallari kénndur Kolbeinn þá,
kauda skara fletur,
lánga stendur Ormi á,
enn þá varist gétur.

56. En nær þýngja adsókn fór,
og eckért skjól var leingur,
í lyptíngu álma-þór,
upp til Sjóla geingur.

57. Allteins klædi' og Odlíng bar
þar eggja dundi senna
mátti skjæda þjódin þar,
þá ei sundur kénna.

58. Svo var eggja þryman þrá,
þrýtur róin manna
ad skildir beggja skúfast þá,
skeytum óvinanna.

59. Ad lypting Þreyngir Þjótir reid,
og Þá sem lifa snída,
sá Þá meingi' ad ljós eitt leid,
Lofdúng yfir frída.

60. Ljósid Þad nær lídur frá,
ljótir géstir frétta;
einginn madur Olaf sá,
undrar flesta Þetta.

61. Nú eru gátur ymsar á,
um eydir nada teitan,
med hverjum máta Milding Þá,
mætti Þadan leita.

62. Nockrir synda sáu mann,
sett um vídan æginn,
ad sneckju Vinda er fyrri fann,
Fylkir blída' um daginn.

63. Inn var dreiginn Þessi Þó,
á Þaunguls trada hróid
árum slegid svo í sjó,
í svipstund Þadan róid.

64. Sanna kunnum sogn um Þann,
seggir Skrafa hrennum,

úr heimi sunnan síðar hann,
sendi gjafir mønnum.

65. Þá Ódlíng snari á upsa stord,
eli frá géck randa,
allir fara fyri bord.
firdar þá, sem standa.

66. Á sundi teknir Svolduř við
Sjóla-kappar vóru,
af Jarli þreknir þáðu grið,
þegnar happa-stóru

67. Jarlinn ljósi' er brandinn ber,
frá blinds nam stormi gánga
með sigurhrósi heim með sér
hafði Orminn lánga.

68. Eptir slíka unna þraut,
er átti snar við dreingi,
Norvegs ríki Næsir hlaut,
en ríkti þar ei leingi.

69. Eitt til þurðar æfi dró,
Ódlíng háum lýða
Ufs-af-skurði ítur dó,
árum fáum síðar.

70. Ad eingum notum aptur var,
ældu hundur brekinn
lá í brotum leingi þar,
loks var sundur tekinn.

---

71. Gullin kransa seljan svinn
syngi skarann braga;
hér skal stansa hródur minn
heitir farin saga.
72. Nafn mitt gét eg samid svo,
sett í rædu næga:
Sumar og Vetur vini tvo,
og vatna fæding hæga.
73. Odds í nesi esni fjár,
auki djarfur vatna,
ferda vjes á fimum klár,
og seil, sem þarf ad batna.
74. Ef nafn mitt heyra þóknast þér
svo þurfi ei tvenna gétu:
sagdur Eiríksson eg er,
Sigurd menn oss hétu.
75. Protnar kjalars tára tjørn
tundri sagnar léttum,
brotnar kjalars ára ørn,
undir þagnar klettum.

# Kvædi

sem kallast

# Fjöllin á Fróni.[1]

Lagid: Sem vid Þjódsaung Norskra.

1.

Hvad føgur er mín fedra jörd
Fjallkonan gamla kénd vid Ísa
hvar tindar hátt úr hafi rísa
hvítfaldud teygja jøklabørd
standa med brúnum kristalls kláru
sem kémpur er gylta hjálma báru
:,: gnapa framm yfir glúpann sjá
geislum hvar sólin hellir á. :,:

2.

Pá Ásaþór sá Íslands fjöll
á Snæfellsjøkli tók hann sæti

[1]) Þetta kvædi er orkt af Sigurdi Breid-fjørd í Kaupmannahøfn vetturinn 1830.

þau fylltu hetju hug með kjæti
og sér til himins otuðu øll
þar framm af tindum vøtn sér veltu
vinarødd Þ ó r í eyrun helltu
:,: þá geingu kempur hans á hønd
nær hetju øld stóð um Norðurlønd. :,:

3.

Þá vissi' eg heya hildar þrá
hamremmis trillta Íslendínga
bláklæddir stóðu í bryuju hrínga
Gunnar og sterki Grettir þá
þeir festu mey og fyrir hana
feingu tíðum á Hólmi bana
:,: deyandi munnur orkti óð
þá oddur spjóts í hjarta stóð. :,:

4.

Fornaldar søgu og fræði ljóð
framm þuldu menn með háttum vønduin
þar stóðu skáld með hørpu í høndum
hvar fjandmanns dundi dauðablóð
þá vóru kvæði í Kónga høllum
kjærust metin af leikum øllum

:,: vér geymdum þeirra vísna söfn
um vorra Fedra hreysti og nöfn. :,:

5.

Enn grær á vorri ættar jörd
atorka sönn af traustum hölum
enn er gladværd í grænum dölum
hvar gjæfu-sæl sér leikur hjörd,
enn sjáum laxa og silúngs fansa
í silfurhvítum elfum dansa
:,: fögur er saungljst fugla nóg
um Fjördu, Eyar, Dali' og Skóg. :,:

6.

Í sveitabóndans auga enn
eg ægishjálm hinn sama þecki
fyrr sem um hætta hildar-steckt
óngdjarfa hvestu afreksmenn
kjæta mig augun blán' og blídu
bændadætranna heima frídu
:,: eins og þá Bragi Idun sá
þær ástir kveikja skáldi hjá. :,:

7.

Heill sé þér kjæra Fedra-frón

fjøll þín í gégnum aldir standi
þó vøtn og eldar verøld grandi
þinna þau gledja Sona sjón;
Ginnúnga : upp úr : gapi' óholla
gráhræda réttu fjalla kolla
:,: svo vér frá Gimli gétum sjá
hvar gamla Ísland fordum lá. :,:

## Prentvillur.

Bls. 10. línu 11. viddstaddur les: vidstaddur.
— 11. — 11. staddur les: saddur.
— — — 12. sæmdar les: sæmdur.
— 16. — 21. fridar-mund les: Frúar-mund.
— 37. — 17. kapppa les: kappa.
— 86. — 23. flóds í mar les: flóds á mar.

